Fáord

# Æruminning

at grøf

virdugligs og ágæts Høfdíngia

## Herra

# Sveins Sølvasonar,

sem var

Konúngligrar Hátignar Løgmadr

Nordan og Vestan á Íslandi,

samt

Klaustrhaldari at Múnkaþverá.

Ritut af

Jóni Jakobssyni

K. M. Valdsmanni í Vadlasýslu, en at Forlagi

sonar Løgmannsins

Landphysicus Jóns Sveinssonar

útgefin.



Prentut í Kaupmannahøfn 1791.
hiá Jóhann Rúdólph Thiele.

Si ut a Natura mors omnibus æqvalis eſt, par cunctos Virtus, vel naſcendi qvadam Sorte vel infinita morum præſtantia illuſtraret, neqve lugenda magnopere forent ingentium virorum funera, neqve elogiis opus eſſet, qvibus præclaræ et ingentes animæ, fato ſuo functæ et ſolutæ corporibus, memoriæ ac venerationi poſteritatis commendantur.

Cicero.

Allt hvad

# Daudinn

mátti ræna

þann

Velædla Velbyrdiga

Løgmann

# Svein Sølvason

oc sér at herfángi giøra,

þegar hann

fríadi hann frá þeirri skuld

er náttúrunni gialdaz skyldi,

oc flutti Gudi Sálu hanns,

fyllir harla lítit Ná-kistuna,

fyri þvi

at eN vegligasti Partr haNs

hefir Daudann umflúit.

Hanns dýrgil daſtóra Manvit
er þióðkuNigt fyri longo;
hanns Lærdómr oc Bócviſt
ſkin hverotveggia medal vor
hanns hæverſca oc adalgódi MaNúdleici
er nafntogadr hiá oſs.
Allir þeßir hoſdíngligo MaNkoſtir
vors ærenda Logmanns
í rodulligri fylkingo annara kriſtiligra dygda
harka at enum bitra dauda,
þar vor Ödlingr fyrir enar ſomo
er nú ódaudligr:
lifir med Gudi,
lifir í vercom ſínom
oc
lifir í æiliſri ÆrumiNíng medal vor.

Byrþi betri ber MaN ei brauto á
enn ſie MaNvit micit.



# Kóngs Scugg-Siá.

Þat er þrefalldt atqvædi, er náliga er þó sem allt sé eitt raunar, er madr þarf vandliga at giæta, þat er Mannvit, oc Sidgædi oc Hæverſca.

En þat er Hæverſca, at vera blídr oc lítillátr, oc þiónuſtufullr oc fagryrdr; kunna ad vera gódr félagi í ſamſæti og vidrædum vid adra menn. Þat er oc Hæverſca, at kunna grein orda ſinna, hvar hann ſkal margfalda, edr hvar hann ſkal einfalda, til þeirra manna er hann mælir vid.



En þat er Sidgiædi, at gioraz samþyckr ødrom mønnom, oc eigi einlyndr, hæfilátr í ølln jafngædi sínu, hreinlátr í gefna gedi. Þat er sidgædi at siá vel vid munneidum oc bølbænum, og godrisi.

Þat er oc sidsemi at hafa sic hreinliga hverttveggia at mat oc klædom; vera rackr at húsom, ef hann á, edr scipom, edr hestom, edr vapnom, vera oc forsiáll enn eigi áhleypinn, oc þó hugrackr í naudsyniom; vera eigi áburdarsamr eda yfirgiarn, eda øfundsiúcr, flýa dramb oc allann ofmetnat. En þat er hofut allrar sidsemi, at elsca Gud oc hanns kircio, hlýda tídom vandliga, vera idiN á helgom bænom, oc bidia sér Miscunar oc øllo ødro kristno fólci.

Þeßir allir lutir er nú høfom vér talda, hvarttveggia of hæversco oc sidgædi, þá má eingi eignaz nema hann hafi mannvit med, og eigu þeßir lutir mannviti at fylgia: ordhagi, oc snilld, oc scilníng allra luta og sida, kunna vel at marka hvat gódir sidir ero, eda hvad sidir ero kalladir eptir atkvædi heimscra manna, oc ero þó raunar úsidir. Þat er oc mannvit,

ef

ef madr er staddr á fiolda fundi manna, á þíngom edr á stefnom, oc heyrir þar ord manna oc eyrindi, at kunna á því gódann skilníng, hver ord eda eyrindi eru af mannvits grundvelli, eda hvat mællt er af skióto túngovarpi eda skamsýniligu varaskrapi. Þat er oc mannvit, at halda alla luti med athugasamligo minni sem mælltir verda eda giørfir manna í millum.

Þat er oc mannvit, at kunna vel løg, oc kunna á því gódann scilníng, hvat løg ero rétt, eda einasta sva løg kollot, oc ero þó eigi nema lagakrókar oc sleitur. Fródleicr allr oc scilníng øll oc góð forsiá, sú er hafa þarf til hæversco edr sida, edr landsbyggíngar edr landagætzlo, þat er oc micit mannvit. Oc þarftu fyri því vandliga þeßa luti at nema, ef þú villt Sæmdarmadr vera.

Þeßi audæfi hafa þá náttúro, at þau dragaz þeim meſt til handa er meſt elſkar þau, oc þeirra neytir med meſtom ørleic; oc sá eignaz vill þeßi audæfi, þá scal hann þat upphaf at hafa, at hrædaz almáttugann Gud, oc elsca haN unfraM hvervetna.



Þeßi audæfi sem nú hefir ek talit, Mannvit, Sidgædi oc Hæversco, elscadi oc nytti med miclom ørleic, Løgmadrinn Sveinn Sølvason, oc því dróguz þau honom framaz til handa, med Gudz ótta oc elsco, frá upphafi hanns til endadægrs, oc scal nú vicia sáordliga á æfi hanns, oc þá:

## I. Um Upprunann.

Løgmadrinn Sveinn Sølvason er borinn í þennann heim at Stóru Grund í Eyafirdi árit (a) 1722, þann 6ta dag Septembris mánadar, er þá var enn 14di Sunnudagr eftir Trinitatis.

Fadir hanns var merkiligr madr Sølvi, Klausthaldari til ens hálfa Múnkaþverár Klausturs.

Fadir Sølva var Thómas er bió ad Stóru Glerá í Kræklingahlíd, Reppstiórnarmadr

(a) I enom dønsco Adresse fretlom 1782 No. 227. segir at Løgmadrinn Sveinn sie fæddr í Júlií mánadi 1721, en efter Søgu Løgmannsins Confessionarii ens gódminnuga Pr. Sra. Gunnl. Eyríkssonar at Laugalandi, er hier ritit fædíngar ár og dagr Løgmannsins.

armadr í Glæsibæar Repp. Fadir Thómasar var Sveinn Bóndi á Illugastødum í Fnióskadal, hanns Qvinna Sigrídr Kolbeinsdóttir.

Fadir Sveins var Magnús Bóndi Þorláksson á Illugastødum, hanns Qvinna Gudrún Thómasdóttir Prests ad Hálsi í Fnióskadal, Olafssonar Prests samastadar.

Módir Gudrúnar Thómasdóttur var Ragnheidur Biarnadóttir Prests ad Gardi í Kélduhverfi.

Fadir Sigridar Kolbeinsdóttur var Kolbeinn Bóndi Eyríksson á Stóru Laugum í Bárdardal, en Módir Olof Hálfdánardóttir.

Hennar Fadir Hálfdán Bóndi Biornsson á Fiósatúngu í Fnióskadal. En Módir Una Dóttir Þorgríms Bónda á Aungulstødum á Stadarbygd. Hanns Qvinna Walgerdr Jónsdóttir, hennar Bródir Þórarinn Prestr Jónson, Sóknarprestr til Kaupángs oc Svalbards Kirkna, vóru þau Systkyn náskild Oddi Biskupi Einarssyni.



Módir Klaustrhaldara Sölva var Þórdis Magnúsardóttir Bónda at Gilsá í Eyafirdi, Sigurdarsonar Bónda, Biarnarsonar Bónda.

Módir Þórdísar var Cecilia Ejúlfsdóttir Bónda, en Módir Sigurdar Biarnasonar var Asdís Jónsdóttir Bónda at Felli í Kinn, hanns Qvinna Vilborg Jónsdóttir Prests Sigurdssonar ad Laufási.

Systir Sr. Jóns var Sigrídur Qvinna Olafs Biskups Hialtasonar, þeirra Fadir Sigurdr Klaustrhaldari at Mødrovøllum í Hørgárdal.

Módir Vilborgar var Haldóra Þorbergsdóttir Syslómanns Bersasonar, Hrólfssonar, Þorsteinssonar, Nicólaussonar Abóta á Múncaþverá.

Módir Haldóru Þorbergsdóttir var Helga Sigurdardóttir, Finnbogasonar Legmanns, Jónssonar Prests ad Grenjadarstad, Pálssonar er var Officialis Hóla Biskupsdæmis.

Módir Sigurdar Finnbogasonar var Málfríðr Torfadóttir Riddara Arasonar.

Módir Málfrídar Torfadóttur var Christín Þorsteinsdóttir Løgmanns ad Økrum í Scagafirdi.

Módir Helgu Sigurdard. var Margret Þorvardsdóttir Løgmanns Erlendssonar.

Módir Margretar Þorvardsdóttur var Margret Systir Stepháns Biskups í Scálhollti.

Módir Þorvards Erlendssonar var Gudrídur Þorvardsdóttir, Loptssonar ens ríca at Mødruvøllom í Eyafyrdi.

Módir vors lofsscæla Løgmanns var ágæt kona Haldóra Jónsdóttir, Jónssonar fliótа Umbodshaldara á Hraunum, Sveinssonar Prests at Bardi í Fliótum; hanns Qvinna Biorg Olafsdóttir.

Fadir Sveins Prests var Jón Bóndi á Siglunesi, en Módir Steinvor.

Fadir Biargar var Olafr Prestr at Breidabólstad í Vestrhópi, Erlendssonar Prests samastadar, Pálssonar Sysslumanns, Grímssonar Sysslumanns, Pálssonar, Brandssonar Løgmanns, Jónssonar Bródr Finnboga Løgmanns.

Módir



Módir Biargar Olafsdóttur var Sigrídur Þorvardsdóttir.

Módir Olafs Prests var Biorg Krácsdóttir.

Módir Haldóru Jónsdóttur var Helga Guttormsdóttir Bónda Jónssonar á Hraunum í Fliótum.

Módir Helgu en Qvinna Guttorms var Málfridur Illugadóttir Rádsmanns á Hólastól, Jónssonar Bónda Illugasonar á Einarstødum í Reiciadal. Fadir Jóns var Illugi Prestr Gudmundsson ad Múla í Reiciadal, en Módir Málfrídur Jónsdóttir Prests Finnbogasonar Løgmanns.

Módir Málfrídar Illugadóttur var Haldóra Skúladóttir Systir Þorlács Biskups á Hólum.

Fadir Haldóru var Skúli Bóndi Einarsson at Eyrícsstødom í Svartárdal, hanns Qvinna en Módir Haldóru var Steinun Laundóttir Gudbrands Biskups á Hólum.

Fadir Gudbrands Biskups var Þorlácr Prestr Hallgrímsson á Breidabólstad í Vestrhópi, en Módir hanns Helga Jónsdóttir

Løgmanns Sigmundsſonar, Fadir Jóns Løgmanns var Sigmundr Preſtr Steindórsſon.

Módir Jóns var Sólveig Þorleifsdóttir, Biornsſonar rica Þorleifsſonar at Scardi á Scardſtrønd, hvers Módurfadir var Biorn Jórſalafari. Qvinna Biorns rica var Oluf Loptsdóttir ens rica Guttormsſonar er ádr getr.

Af því ſem nú er talit, má giørla ſkynia, at vor loſſæli Løgmadr Sveinn Solvaſon, átti kyn ſitt at recia til ens hellſta Stórmennis, og gædínga er getit verdr á landi hér, oc er því ei at furda þó hanns mielo mannvits gáfur vitnudo þvílíct jafnvel, á enom nordaza kiálca þeßa vors kæra oc kalda lands, ſvo hér á heima ſuotrliga atqvædi Scáldſins *Juvenalis*:

Magnos poſſe viros, et magna exempla daturos
Vervecum in patria, craſſoqve ſub aëre naſci.

## II. Um Líffins framgáng.

Þegar þeßi vor ſæli Løgmadr var nú borinn í þennann heim, ſem ádr er ſagt, løgdo hanns

gøfigu

 

gøfigu Foreldrar fyrst oc fremst stund á þat, at hinn nýfæddi sonr þeirra innplantadiz úlfsins trénu Jesu Christo, fyrir heilaga skyrn, hveria hon- um á sinn fædingardag veiti, at Storu Grund í Eyafyrdi, þá verandi Sóknarprestr samastadar, Sira Gudmundr Jónsson; þareptir óx hann oc þróadiz, fyrir gudligt full- tingi, oc náqvæmt uppfóstr sinna gøfugu oc ágætu foreldra, at aldri oc vitsco, í Guds ótta oc gódom sid, og sýnduz svo brádliga hanns ypparligo náms oc náttúrogáfur, at hann á sino 6ta alduts ári, var sæmiliga bóclæs ordinn, oc á eno 10da ári vel ritandi, þá hann var byria látinn stafrof ennar Róm- versco túngo, undir tilsøgn oc leidarvísi síns kæra fødurs, hverr þareptir fécc þenna sinn elskuliga einka son, til læringar, þeim nafn- kunniga vellærda Gáfomanni Sira Stepháni Einarssyni, er þá bió at Espihóli, en sídar at Laufási, og var Prófastr í Þíngeyar Þíngi, tóc hann hiá honum addáanligom framførom í látínomáli oc ødrom lærdóms id- kunom, uppí sex vetr; þadan af þádi hann eirn vetr uppfrædíngo at frænda sínom, þá verandi

Stúdent

Stúdent at Múncaþverá, síðan Sýslomanni Þórarni Jónssyni, oc locs ac fengno réttiligo Dimissionis Testimonio árit 1740, á hanns aldurs 18da. sigldi hann til meiri frama, oc fullkomnunar sínom bócmentom til Kaupmanna-hafnar Háscóla, hvar hann ásamt 4um ødrom íslenscom deponeradi sama haust, oc kom í Stú-denta rød oc tølo, oc at því búno lagdi hann med stødugri kostgæfni, alla stund á Løgvísina, med hvillicom framgángi oc farsæld, at hann vid Examen Juridicum, tóc einnsaman opinberliga Attestatiu, undir þá verandi Løgvísinnar Lærur-um, Dr. Chr. Ludv. Scheid, Profess. Ord. J. Nat. et Gent., et Facultatis Juridicæ tunc temp. Decano, samt Dr. Koefoed Ancher Profess. Juris Civilis, med Charactere Laudabili.

Þar eptir um vetrinn ødladiz hann allra-nádugasta bestállingar bref fyrir Vice-Løgmanns embættino Nordan oc Vestan á Íslandi, og virkiligu Løgmanns embætti, þegar Løgmadr Hans Becher annadhvert dæi, edr embættit ødruvís lidugt yrdi; þetta Kóngsbref, er da-terad 30ta Martii 1742. Kom hann svo inn til landsins um sumarit, þá 20 ára at aldri, oc

settiz



settiz at hiá sínom velnefnda födr Klausturhaldaranom Solva Thómassyni á Múncaþverá.

Arit 1743 reisti hann til Alþíngis, oc vildi eptir síno embættis brefi hafa gegnt málom manna í Nordan oc Vestan Lögdæmi, í forföllum Lögmannsins Hans Becher, þá Sýslumadr í Dölum, Ormr Dadason, eptir fullmagt frá Hans Becher, klæddi Lögmannssætit; en Sýslumadr Ormr vildi ei úr Lögmanns sæti víkia, hvarfyri vor lofsæli Lögmann skaut slico fyrir þá verandi Amtmann Justitzrád J. Lafferentz, dæmdi þá Ormr í nockrom málom, þartil Amtmadr kom á Þíng, en þann 19da Júlii sama ár settiz Lögmadrinn Sveinn fyrst í lögréttu sem forseti, oc dæmdi í drápsmáli Hrómundar Jónssonar af Dala-sýslo, þá og vid allranáduguftu scipun af 10da Jan. 1744 til Stiptamtmanns Ochsen, honom var fullmagt gefin, alleinum at standa fyri Lögmanns embætti í forföllom H. Bechers, svo sem hann oc í 4 ár þénadi Vice-Lögmanns embætti, oc þar eptir at Hans Becher fráföllnom 1746, þiónadi hann, Gudi til dýrdar, Kónginom til æro oc födurlandino til gagns, Lögmanns embættino




bættino Nordan oc Vestan á Islandi í rúm 36 ár. Høfum vér þat fyri satt, at einginn hafi svo lengi Løgmadr verit á landi hér, þvi Þórdr Gudmundarson sem Løgmadr vard 1570, en sagdi af sér embættit 1606, sama ár oc Jón Jónson Løgmadr andadiz á Bessastødum, meinaz lengst at hafa Løgmanns embætti þénat. Arni Oddsson var Løgmadr í 32 ár, oc því nærstr Þórdi at embættis ára fiølda. Allir adrir Løgmenn hafa skémr því embætti þiónat sem vær tilvitum. Nú vildi þat bædi verda miøc lángsamt oc undir eins naudsynia oc nytsemda litit, at innfæra hér oc upptelia þá dóma, sem vor lossæli løgmadr hefir gengit, bædi innan oc utan løgréttu, í svo mørg ár, þar þeir vel flestir kunna at siáz, af alþingis bóeunom; víc eg því aptr til hanns lífs framgaungo. At lidnom 6 árom frá hanns híngadkomo til landsins, edr árit 1748, inngeck Løgmadrinn þá heiløgu hiónabands stétt, med dóttur þeß ypparlega Sýslumanns Jóns Jónsonar í Grenivík, ædla gøfugri Málfrídi Jónsdóttur, at fengno ádr Konúngligu allranádugasta leyfi til ektaskaparins, þar þau voro systkynabørn at frændsemi,



oc frammför þeirra Brúdcaup vyrdugliga at heimili hennar ædlagsfugu foreldra, Grenivic í Höfdahverfi, þann 26ta Sept., sama ár; børn þeirra, vors lofsæla Løgmanns oc Frú Málfrídar vóru ellefu (b), nefniliga: 1. Velædla Hávís Hra. Jón Sveinsson eldri, Landphysicus oc Medicus practicus á landi hér. 2. Ædla oc Velvís Hra. Jón Sveinsson yngri, Kóngligrar hátignar Sýslumadr í Austr Múlasýslu. Ellsta dóttur sál. Ingigerdur Sveinsdóttir giftiz velæruverdugum Prófastinum oc Dómkirkio Prestinom Síra Þorkéli Olafssyni at Hólum í Hialltadal. Önnur Madame Charitas, giftiz Klausturhaldaranum Sr. Erlendi Hiálmarssyni. Þridia Madame Ingebiørg gift Prestinum Síra Magnúsi Erlendssyni Capelláni til Hrafnagils oc Kaupángs Sócna. Fiórda sál. Jómfr. Gudrún Sveinsdóttir, andadiz á 19da ári. Hér ad auki þrír synir

(b) J ádr umgetnum Adresse Tídindum stendr, at vor sæli Hra. hafr átt 10 børn, sem er feil þeirra sem þar hafa grein á giørt.

synir Jón, Wigfús oc Solvi, oc tvær dætur med þvi nafni Helga, sem oll ondudoz á barns aldri.

Arit 1759 ad ondudum fødr vors lofsæla Løgmanns Klausturhaldaranom Solva Thómásſyni, var þad hálfa Múncaþverár Klaustr forpagtad Løgmanninum, hinn annann helming Klausturſins héllt sá ágæti madr, Laurits Hannesſon Scheving, oc féll þeßom ypparligo mønnum allt vel oc sómasamliga, alla þá tíd þeir samanlifdo í umgetnu forpagtníngar félagi.

Anno 1757 var Løgmadrinn ásamt Syslumanninum Þórarni Jónsſyni, kiørinn til at ſiér til forráda oc umſiár at taca Hólabiſkupsſtól, med þartil heyrandi Oeconomiens umbodum, oc hafdi hann Syslan þeßa til þeß árit 1763, þá vid henni tók af honum Syslumadrinn í Hegraneß-ſyslu Sr. W. Scheving.

J þeirri Commisſion sem haldin var um Biſkupsſtólana, 27da Júlii 1765, var

 hann

hann ásamt hellstu mønnum á landinu eirn medlimr, oc mørg ønnr landsins vanda erindi, var hann sem kúnnugra er, enn skíra þurfi, vidridinn, ad vonum, svo sem eirn vitr oc skinsamr høfdíngi á landi voru.

Hvad bócvísi oc mannvit vors sæla Løgmanns áhrærir, þá var hann madr velæfdr í flestom nordurlanda túngomálum, svo sem Grísco oc Latínomáli, Þýdversco oc Dønsco, oc sva var hann Franska túngo vel sciliandi, at hann bædi ritadi bref á frønsco, oc lica þýddi hana oc sneri á liódmæli, ena forno dønsco túngo Norrænuna, elscadi hann oc ydkadi at vonom, þar hann in Antiqvitatibus Patriæ var eirn margfrodasti á vorum døgom, þá var hann eingi sundrgiørda madr í ritom sínom, edr afbrugdinn þeim skrifs oc talsháttom, sem skinsamir menn á þeßari øld hafa sér lynda látit, þar oc ráda má af formála hanns, framan vid Tyro Juris, at hønom ei hafi gedfelld verit nýbreitni þeirra, er eckert þykir sæmandi, nema ritit sé á lleíng vid þat,

er Ari Pr. Fródi, Snorri Sturluson, oc fleiri er lifdo á 1110 oc 1210 øld, hafa eptir sig látit. J Theologia, Philosophia oc Metaphysica var hann eirnveg lærdr vel, oc eirn ypparligr løgvitríngr, svo vel í Jure Patriæ sem Gentium; Skáld var hann hid prýdiligasta, oc yrkti fagurliga, þó hann einkum á hanns seirni árum, legdi þar á litla stund, svo sem lica hanns embættis umsvif leyfdo ei heldr slict. J teikníngom var hann eirnveg vel át sér, oc hinn besti ritari einhver á vorum døgum. Saungmadr var hann gódr, oc in arte musicali vel skiniandi. Hann var þar hiá mikill elskari af lærdómi oc bóeligum mentum, en hatadi þar ámót allann hégóma oc endurleyso.

Þeirra hanns mannvits oc lærdóms kénníngar merkia, sem oß ero kunn, vilda ec hérmed sáordliga geta, oc er þá:

1) *Tyro Juris*, in Octavo, þrykt í Kaupmh. 1754. ein nytsamlig undirvísan, um þá íslensku laga vitsco oc rettargángs máta, í



4rum bócum samantekinn af Koúnúngligum løgum, tilskipunum oc réttarbótum ꝛc. yngri oc elldri, med merkiligri kostgæfni oc snotrurligri nidurradan, sem almenniliga kunnigt er.

2) Þat íslenska *Jus Criminale* in Octavo, þrykt í Kaupmh. 1776, hondlandi um misgiørnínga, stórsakir, ok óbótamál, samt réttargángs mátann í þeim søkum, eptir eldri oc yngri landslø um, í samburdi vid en donsco oc norsco løg, recessa oc skipanir, bócin er skipt í 2 hluti, hverra inn fyrri í 38. Cap. hondlar eginliga um hverskyns misgiørnínga fyri sig; en hinn sídari í 24 Cap. um straff oc refsíngar, samt réttargángs mátann. Þetta skrif er almenniliga kunnigt, oc í miclo afhaldi, hiá þeim, er løgvísi ydka oc rækia, utann sem innan landz.

3) Þryktir Qvidlíngar:

a) Þat ypparliga qvædi Lóvísu Lilia.

b) Epitaphia eftir Greifa O. M. Ranzow og O. Thott.

c) Epi-

c) Epithalamia Sýslumanna Th. Jónssonar oc J. Jacobssonar, samt Mag. H. Einarssonar.

4) Rýmur af Gissuri Jarli Þorvaldssyni, at ordsæri oc scáldskap prýdiliga qvednar.

Af Hænsa Þórir nockrar rýmur vid hverie þætt hefir merkis scáldit Sira Jón Thorláksson.

5) Má framar telia enn fleiri smá qvedlínga oc ritlínga Løgmannsins, svo sem:

1) Prosopopoja patriæ vid afgáng sáluga Amtmanns Magnúsar Gíslasonar.

2) Sorgarlióð eftir Løgmann E. Olafsson.

3) Packlætis saungr Carls Stuart þess annars, þá hann var frelsadr af óvina hendum; af þýsku.

4) Furstans af Saarbruch Svar 1755 til hanns undirsáta; af þýsku.

5) Qvædit Ladbúabragr eftir Horatio.

6) Qvædit Hreggvidr.

 7) Rit=



7) Ritlingr um tíund Islendínga.
8) Um Kúgildi, eda Instædu á jørdum.
9) Um Fólksfiølda á landi hér.
10) Um Heitdag hinn gamla nordanlands.
11) Vidurauka vid Løgmanns Vída-líns Alin oc Medalmann.
12) Um Þíngfarar-kaup.

Nú skal nockut greina um vøxt, yfirlit, dagfar, oc lunderni hanns, því slíkt er bædi gamansamt at lesa, oc hæverseligt eftir at hreita, má oc hvergi undanfella í æfisøgom framlidinna, þar slíkir lutir lýsa enom ørenda á lifandi manna siónarplátzi.

Løgmadrinn Sveinn Solvason, var ei medalmadr á hæd, ennis mikill, velfarinn í andliti, oc stundum vid freenur nockut rauð-leitr, liósjarpr á hárit, augnstór í medallagi, nefit framreist oc í stærra lagi, nockut var hann fraummynntr oc vara þyckr, brióstit reist, oc sá upp, brekinn miøc oc gildr, en þó bein-smár, oc ei útlima stór, medalmadr at hreysti.

Hann

Hann var sídtaladr, en ei ódtaladr, oc rómrinn þar eftir, í framgaungo var hann stilltr, oc at allri scøpun høfdíngligr. I skapi var hann stadlyndr oc fastheldinn; gerdi hann jafnan ráð sín í tómi, skapdeildar oc ættlanar madr, oc fullhugi í øllum mannraunom, svo sem hann var skapvær oc fridsamr, svo þótti hann jafnan inn mesta selskapar bót, því at eins oc hann var ágæta lærdr, svo var hann jafnan hæverseliga skémtinn, oc gladlyndr, eingi var hann újafnadar madr. Hann var jafnan gódgladr, oc ordheppinn; hvad úvinir hanns kølludu késkni, oc kímni, sem var raunar at upprás, ein tegund scarpleica hanns (rotunditas ingenii), hann var smidr at náttúro, oc gódr bókbindari; eingi var hann áburdarmadr at klædum edr ødro látædi.

Heima var hann spacr oc kyrlátr, oc hafdi fyrisøgn þockasama í þeim lutom er hússiiørn vidkomo. Vid dryck var hann at hófi skémtinn oc gamansamr med vinom sínom, vecciandi jafnan þau efni til umrædo, er til



nytſemda, oc frödleiks reiſingar horfa mátto. Ef honom mislícadi, brá honom til þagnar of hríd, oc litverptiz þá litit í andliti, en ſtillti miec ordunom, oc ſøgdo því nockrir at hann væri lángúdigr í ſcapi; aumom mønnom oc ſátæcom, midladi hann gódfúsliga, en eingi var hann ørſciſtamadr, þó jafnan hinn ſcilbeſti. Eingo at ſídr vard hann fyrir imſom misbrygdom, hnjódi oc øfund újafnadar manna, oc ſætti hann því eingo (hvers vegna ſlícar endurleyſur gupnudo ſiálſcrafa), hafandi fyrir augom þat er mællti fordom ſpecíngrinn *Cicero*: "hald þú fyrir heidr" ſegir hann, "ef þú ert laſtadr af þeim er illa tala, um góda menn, hvad at háttr er ſkamvíſra manna oc heimſcíngia, er ſtedia á villoſtigom egin metnadar, hafnandi ſvaſudligo mannviti, dygdom oc drenglyndi, fyrir úviturleic oc ſcamſýni —"

III. Um





## III. Um Lífsins útrás.

Má med rétto geta fyrst, at þegar Løgmadrinn var naumliga hálffertugr at aldri, kéndi hann kránkleica þeß er lærdir menn kalla Erysipelas phlegmonodes (Heimakomu), er upp þadan ei vid hann skildi, oc afladi honom jafnan þvílícra kvellinga, at hann døgom saman vard vit rúmit at halda, jafnvel þó hann væri med sótthardari mønnom, stadgódr; þar eftir kéndi hann oc annars kránkleica, er honom oc fylgdi til dauda dags.

Einkanlega árit 1779, þá hann seinast ferdadiz til alþíngis á 57da aldurs ári, oc dæmdi í málom þeim er undir hann borin vóro úr Nordan oc Vestan Løgdæmino, þá hann líca qvaddi á því þíngi vini sína, sýktiz hann sídla í Augusti mánudi af ádurnefndo sóttarferli einkanliga, oc var med jafnadi þúngliga haldinn, héllt hann þá vid rúmit í fullar 8 vicur, oc þó hann sídan til nockurrar heilso kæmiz, nádi hann ei þadan af enom fyrri lícamans styrkleica, heldr fór jafnan hnignandi,

 

andi, oc elnudo kránkleicar hanns, einkum sumarit 1782, þá matarnautn hanns þverradi miøc, oc kránedœmi hanns sýndoz til umbreytingar snúiz hafa, hvílicast sem lærdir menn kalla Apepsiam, svoleidis at hann var jafnan sálátr med þøgn, oc sýndiz mißa krapta sína, þá oc þeßi licamans krapta þverran lokſins lagdi Løgmanninn í sína Banasœng at fullo oc øllo, þann 2ann Augusti, sama ár. Hinn nærsta Sunnudag þareftir edr þann 4da Aug., sem var 10di Sunnudagr eftir Trinitatis (c), medtók hann Jesu Christi h. likama oc blód, í því heilaga kveldmáltídar Sacramenti, oc fyrir sóttarinnar (sem þó aldrei var stríd né ákøf at merkia) þrenngingo, oc daudans atfør, misti hann málsins nærsta dag þar eftir, en sofnadi loksins med hœgo andláti um morgun-

inn,

(c) Þann dag kallar *Arngr. Jonæ* Epist. Worm. 340. Dominicam luctuosissimam, þegar hann er at skrifa um luctuosissimum nuntium de ereptione Cancell. *Christ. Fris*, de lugubri regno et ecclesiæ calamitate.

inn, þeß 6ta Augusti, ár hit sama oc fyrr segir, þá hann hafdi lifat hér í heimi vart 60 ár, þiónat í embætti oc verit Lögmadr rúm 40 ár, á síns Hiónabands 34da ári.

Lifdi hann med kunnusto vegs oc vyrdíngar, heidurs oc hamíngio hér á jørdo, hvadan hann um port ens bitra dauda er farinn á land enna lifendo, til údáins-hallar lifanda Guds, hvar hann lifir gudligo lífi, jøfno lífi, æjlífo lífi, sem eckert líf mun eptir koma.



